# MAÐVÍGSKAN

EPTIR

Dr. V. PINGEL.

INNGANGSORÐ OG ÍSLENZK ÞÝÐING

EPTIR

BOGA TH. MELSTEÐ.




REYKJAVÍK.

*Á FORLAG KRISTJÁNS Ó. ÞORGRÍMSSONAR.*

1884.

Eins og ritgjörð þessi bendir til, er hún samin vorið 1883, og var ætlazt til, að hún kæmi þá út um sumarið, en ýmsra orsaka vegna först það fyrir, en samt sem áður þykir ómaksins vert að láta hana koma á prent.

Prentað hjá Sigm. Guðmundssyni í Reykjavík.

# Inngangsorð.

Það er enginn efi á því að dr. V. Pingel er einn af hinum helztu og fremstu framfaramönnum meðal Dana nú á dögum. Jeg þarf eigi með fleiri orðum að segja hver hann er, því hann er þegar orðinn kunnur heima á Fróni af sumum blöðunum og af Skírni, og að líkindum mun hans verða minnst þar enn meira hjer eptir. Það sem dr. Pingel hefur barizt mest fyrir er að koma kennslunni í lærðu skólunum í betra horf en verið hefur; bæði hefur hann ritað í dagblöðin og gefið út tvo bæklinga um það mál. Í fyrri bæklingnum: *„Om Hovedmanglerne ved den lærde Skole“* (Kjöbenhavn 1878), lýsir hann einkum hvernig kennslan hafi verið á síðasta mannsaldri og sje nú sem stendur, en í hinum síðari: *„Fortsatte Betragtninger over den lærde Skole“* (Kh. 1879), sýnir hann einkum hvernig kennslunni ætti að breyta, en af því að ritgjörð í líka átt er þegar komin út í Andvara, ætla jeg eigi að fara lengra út í það, nema að geta þess eins, að það er mark hans og mið, að menn læri það, er menn læra, svo vel, að menn geti eða kunni að nota það eptir á, og að menn einkum sjeu látnir læra það, sem nytsamlegt er í daglegu lífi t. a. m. fremur lifandi málin en hin dauðu.

Annan og helzta kaflann í fyrri bæklingnum kallar dr. Pingel *„maðvigsku“* og hinn mikla öfugsnáðaskap. Hann lýsir þar kostum og ókostum Madvigs og lærisveina hans og áhrifum þeirra á lærðu skólana í D-

mörku. Pingel hefur í mörg ár verið kennari við einn hinn helzta lærða skóla í Kaupmannahöfn (Metropolitanskólann) og er því kunnugur máli þessu af eigin reynslu, auk þess sem hann er gáfumaður og víða heima, bæði í málum, sagnfræði og náttúrufræði, svo að orð hans eru hjer mikils metandi. Af þessu og svo einkum af því, að lærði skóli vor Íslendinga hefur átt sömu forlögum að sæta af madvigskunni, af lærisveinum Maðvigs, og samkynja skólar í Danmörku, þá ætla jeg að þýða mestallan þennan kafla á íslenzku, en áður ætla jeg þó að nefna Madvig með nokkrum orðum.

Varla getur nú á tímum nokkurn mann á Íslandi, er hefur numið eitthvað í latínu, að hann hafi eigi heyrt Madvig nefndan, því í rúm 40 ár hefur mátt heyra nafn hans hljóma að kalla í hvert skipti, sem latnesk málfræði er nefnd. Hann heitir öllum nöfnum *Johan Nikolai Madvig* og er fæddur 7. ágúst 1804 í Svaneke, kauptúni á Borgundarhólmi. Faðir hans var þar bæjarskrifari og var Madvig 12 ára, er hann dó. Einhverjir urðu þá til þess að liðsinna honum svo að hann komst árið eptir 1817 í lærða skólann í Friðriksborg; var hann þar 8 ár og útskrifaðist svo þaðan, og tók þá að lesa málfræði við háskólann í Kaupmannahöfn. Embættispróf tók hann 1825 í málfræði. Árið eptir gaf hann út *Emendationes in Ciceronis libros de legibus et Academica* og varð magister fyrir. Hann var þá þegar settur kennari og prófandi í latínu við háskólann. Árið 1828 kom út rit hans *De Asconio Pediano* nafnfrægt rit og varð hann doktor fyrir það. Árið eptir 1829 var hann skipaður háskólakennari (professor) i málfræði. Fyrstu rit hans, er nú voru nefnd, vöktu þegar eptirtekt manna á honum; þótti hann með þeim hafa rutt nýja og betri braut fyrir málfræðinga og lagt undirstöðu fyrir nákvæmar rannsóknir þegar við handrit væri að eiga. Hann gaf nú út hvert ritið á

fætur öðru jafnframt því, að hann rak svo rækilega kennsluna við háskólann að annara gætti lítið hjá honum. Rit hans má sjá talin í „Erslevs Forfatterlexicon“ og víðar; að eins ætla jeg að geta þess, að latneska málmynda- og orðaskipunar-lýsing hans kom fyrst út 1841. Hún er átrúnaðargoð lærisveina hans eins og margir hafa fengið að kenna á. Þjóðverjar, Hollendingar og Englendingar hafa þýtt hana á sín mál, og sýnir það hve mikið hefur þótt í hana varið.

Madvig hefur átt svo mörgum störfum að gegna, að það yrði of langt að telja það upp hjer. Að eins hið helzta skal jeg drepa á. Árið 1848 breyttist lífsstefna Madvigs, svo að hann gat að eins stundað málfræði í hjáverkum um nokkur ár. Auglýsing frá 28. janúar 1848 hjet frjálsari stjórnarskipun í öllu ríkinu (Danmörku og hertogadæmum) en verið hefði, og hún kom Madvig til þess að byrja að leggja orð í belg í stjórnarmálum. Hann mælti í móti því, að hertogadæmunum væri gjört jafnhátt undir höfði og konungsríkinu af því að það væri miklu fjölmennara. Hann varð nú kirkju- og kennslumálaráðgjafi frá 16. nóvember 1848 til 7. desember 1851, 22. júlí 1848 varð hann umsjónarmaður yfir kennslunni í lærðu skólunum og hefur verið það opt síðan. Sama ár var hann kjörinn á ríkisþing fyrir Borgundarhólm, og síðan hefur hann opt setið á þingi, fyrst í fólksþinginu og síðan í landsþinginu. Rektor háskólans hefur hann opt verið síðan 1855. seinast 1879, er háskólinn hjelt 400 ára hátíð sína; var öldungnum þá viðbrugðið fyrir ræður sínar og hve vel honum fórst allt úr hendi á hátíðinni. Hann hefur setið í öllum hinum helztu nefndum og stundum eða optast verið formaður fyrir þeim, sem skipa hafa átt fyrir um skólamál og skólakennslu í Danmörku á síðasta mannsaldri, svo það má nærri geta hve mikil áhrif hann hefur haft á alla kennslu í skólunum. 13. maí

1850 nam Madvig, hann var þá kennslumálaráðgjafi — úr lögum fyrsta próf við háskólann (examen artium) og samdægurs kom út auglýsing um kennslu og próf frá lærðu skólunum. Sama ár 30. júlí fengum vjer Íslendingar „reglugjörð um kennsluna og lærdómsprófin í hinum lærðaskóla í Reykjavík“. Það er því síðan árið 1850, að Madvigskan hefur drottnað í lærðuskólunum í Danaveldi, að því einu undanteknu, að kennslumálaráðgjafinn krukkaði dálítið í hana 1871 í skólunum í Danmörku, en Nellemannsreglugjörðin 1877 agnarögn í skólanum í Reykjavík.

Eptir að Madvig hafði verið rúm 50 ár háskólakennari fjekk hann lausn. Hann var farinn að verða sjóndapur; þó er hann ern enn þá og getur vel farið ferða sinna, kemur stundum á mannamót t. a. m. almennan stúdentafund í vetur og hjelt þar tölu allmikla og var mikill rómur að henni gjörður, og á háskólann, ef þar er eitthvað um að vera. Hann er stór maður og töngulegur.

Þess þarf varla að geta að heiðurtákn og titlar hafa nálega rignt yfir hann.

---

# Maðvígskan.

---

„JEG á hjer úr vöndu að ráða". Jeg get eigi leitt rök að máli mínu án þess að geta einstakra manna. Jeg get eigi látið í ljósi óánægju mína yfir maðvígskunni án þess að ráðast á lærisveina Madvigs. Þetta þykir mjer sárt, því á meðal þeirra eru margir hinir beztu vinir mínir, og er jeg mjög ófús á að særa tilfinningar þeirra. En það er þó verra, að jeg fæ eigi minnst á maðvígskuna nema því að eins að jeg tali um meistara þeirra, sem alls eigi á að ábyrgast alla þá galla og gambur, sem lærisveinum hans er sök á gefandi; en þessu er þó þannig farið, að eigi er hægt að sýna ljóslega hin óhappalegu áhrif, er lærisveinar Madvigs hafa haft á fyrirkomulag hinna æðri skóla hjá oss, nema með því að leita upptakanna að þessari meinsemd. En þeirra er að leita í þeim einstrengingsskap og ókostum, sem loðir við hinar vísindalegu sýslanir hins fræga göfugmennis, er stofnsett hefur þessa vísindastefnu, er ber nafn hans. Það er þó tvennt, sem hughreystir mig og hvetur til þess að hörfa

eigi í þessari klípu, er jeg er staddur í. Hið fyrra er, að enginn maður er sá, sem vjer skuldum eins mikið og sjálfum sannleikanum. En nú er það einlæg sannfæring mín, að það sje satt, sem jeg ætla að segja um fyrirkomulag á kennslunni hjá oss, og að vjer getum tekið framförum að eins á þann hátt, sem jeg bendi á. En til þess að fara þannig að verðum vjer algjörlega að segja skilið við maðvígskuna. Ætti jeg þá að gefa nokkrum manni svo mikinn gaum, jafnvel þó að þessi maður væri miklu fremri að gáfum og þreklyndi heldur en menn gjörast almennt, að jeg hikaði mjer við að segja svo rækilega sem jeg gæti það, er mjer býr í brjósti? Jafnvel áköfustu mótstöðu menn mínir munu játa, að enginn efi sje á því, hvað jeg eigi að gjöra. Annað er þetta, ætli nokkur hætta sje á því, að jeg mundi særa hinn ágæta vísindamann, þó að jeg reyni einarðlega að segja sannleikann um hann og störf hans? Því meiri sem einhver vísindamaður er, því dýrmætari og helgari er sannleikurinn í augum hans, því meira hefur sú sannfæring gagntekið hann, að sannleikurinn einn stendur óbrotgjarn, en að allt prjál og gum, og eins það, sem kemur af óhóflegri tignun, er hverfult. *Madvig* hefur alla hina löngu æfi sína hlotið svo mikla aðdáandi viðurkenningu, að hann hefur sjálfsagt fengið nóg af því. Landar hans hafa hann í hávegum sem hinn mesta vís-

indamann þeirra. Hinn menntaði heimur játar, að hann sje mestur latínumaður á þessari öld og einn af hinum skörpustu málfræðingum sem nokkru sinni hafi uppi verið. Lærisveinar hans hefja hann til skýjanna. Ætli mjer skjátlist þá, þar sem jeg hygg, að það muni einmitt eigi vera honum á móti skapi, að sá maður, sem hefur haft svo mikið af honum að segja, að orð hans eða ætlun er eigi alveg þýðingarlaus, reynir að segja honum hreint og beint, hver takmörk þessara ágætu hæfilegleika sjeu og hvað það er, sem Madvig hefur eigi getað veitt lærisveinum sínum?

Eins og jeg hef þegar getið er það játað að Madvig sje einn af hinum glöggustu orðadómurum,[1]) sem nokkru sinni hafa uppi verið. Þetta eina orð, orðadómari, einkennir manninn til hlýtar, bæði kosti hans og ókosti. Því dómgreind er að eins eitt af tvennu, sem vísindaleg rannsókn er falin í. Yfir hitt hefur málið ekki myndað nokkuð heppilegt orð, og þá er jeg vil nota orðið sköpunargáfa (Genialitet), verð jeg fyrst og fremst að koma í veg fyrir misskilning þann, sem tízka í daglegu máli gæti valdið þeim, að sköpunargáfa ætti hjer að tákna æðri andans gáfu en dómgreindin. Báðar þessar gáfur bæta hvor aðra

1) Jeg kalla svo hjer „kritiker“, en svo er hjer sá nefndur, sem dæmir um hvað rjett sje og rangt í handritum. Jeg veit ekkert orð íslenzkt sem nái þeirri merkingu.

*Þýð.*

upp og geta eigi án annarar verið; fullkominn vísindamaður er jafnbúinn þeim báðum og önnur gáfan yfirgnæfir eigi hina, og hversu einstrengingsleg, sem einhver vísindaleg gáfa er, getur hún þó eigi farið algjörlega varhluta af báðumgáfunum. Dómgreind án allrar sköpunargáfu eða sköpunargáfa án allrar dómgreindar er að eins tóm ímyndun. Aðalmunurinn á milli þeirra er sá, að sköpunargáfan er framleiðandi, skapandi hæfilegleiki, sem ræður í hið hulda samband á milli þess, sem til er á víð og dreif, og eins og endurtekur verk náttúrunnar þannig, að hún nemur staðar í aðalatriðum málsins. En dómgreindin er í eðli sínu eyðileggjandi, leysir og greinir í sundur, eyðileggur heildina og veldur margbreytni. Sköpunargáfan er djúpsæ, kemur af fjörugri tilfinningu og vekur fjör. Dómgreindin er dóttir hinnar köldu og skörpu skynsemi, og veldur hrolli og skelfingu eins og ægishjálmurinn á höfði Fofnis. Sköpunargáfan er skyld listinni og verpur fegurðarblæ á hina vísindalegu rannsókn; í annan stað skilur dómgreindin það, sem hún eigi hefur getað afmáð, eptir á tjá og tundri. Sköpunargáfan er æskufjörug og djörf, dómgreindin gamalvís og gætin. Schiller hefur í einu af hinum frægu heimspekilegu kvæðum sínum sagt nokkur orð, sem margur hefur sjer í munn tekið, og sem eru þess verð, að jeg tilfæri þau hjer, að eilíft samband sje í milli hins mannlega anda

og náttúrunnar og að hún efnir það trúlega, sem hann lofar. Fyrst verður þó að takmarka þýðinguna í þessum fögru og djúpvitru orðum, áður en má kalla þau sönn. Það er eigi að eins að við sköpunargáfuna má eigi skilja svo margt, sem vjer á þessum stað höfum haft það orð; en setning Schillers á eigi við þá miklu menn, er almenn máltízka eingöngu nefnir andagiptarmenn, nema þau augnablikin, sem bezt stendur á fyrir þeim. Með því að mennirnir eru ófullkomnir, skjátlast þeim í hugboði sínu um hið hulda samband hlutanna, og hinum miklu gáfumönnum er einmitt hættast við að flaska mest. Sú hætta, sem er búin hinni vísindalegu sköpunargáfu liggur í því, að vísindamaðurinn er bundinn við sitt eigið eðli. Því það er einmitt mark og mið vísindanna að finna það, sem er, ekki það, er gæti verið, og vísindalegur sannleikur er algjör samkvæmni á milli eiginnar hugsunar og tilverunnar eins og hún er í raun og veru. Nú er það, að hið niðurrífandi afl, dómgreindin, kemur til sögunnar á svo heppilegan hátt, með því að hún bæði drepur niður ósönnuðum og sjálfsköpuðum hugsunum og hreinsar þær, er sannar eru, og losar þær við sora þann, sem loðir við þær. Dómgreindin reynir eða rannsakar það, er sköpunargáfan finnur. Öll vissa og áreiðanlegleiki vísindanna á rót sína að rekja til hennar.

En með því að dómgreindin hefur þannig

efstu umsjá yfir framleiðslu sköpunargáfunnar, og að ekkert getur orðið föst eign vísindanna án þess að hafa gengið í gegnum reynslu dómgreindarinnar og fengið mark hennar, þá er hætt við að dómgreindin verði fyrir þeim misskilningi, að hún sje sjálf vísindin. Aptur á móti hefur hin ranga sköpunargáfa, hið falska andríki, hið æðisgengna hugsjónaafl átt sjer stað á öllum öldum, og eigi að eins ruglað margan vísindamann, heldur og valdið því, að heil tímabil hafa litið út eins og vísindalegur æðisgangur. Alkunnugt dæmi upp á þetta er hið heimspekilega rugl, sem hinn þýzku vísindi enduðu með 18. og byrjuðu 19. öldina, en sem nú fyrir löngu hefur vikið úr vegi fyrir ransóknum, sem aptur eru næstum of þurr skynsemi. Eins alkunnugt getur þar á móti það eigi kallazt, að líkur æðisgangur hafi orðið með hin grísk-rómversku vísindi í Þýzkalandi, þar sem þessi vísindi hafa haft aðalstöðvar sínar um síðustu öld. Það er nóg, að jeg minni þá, er þekkja hina yngri málfræði, að eins á menn eins og F. A. Wolff, G. Hermann, Creutzer, Welcker og jafnvel hinn ágæta K. O. Muller (í fyrstu ritum hans sem Orchomenos.) til þess að leiða í ljós sýnishorn af hræðilegum aragrúa af röngum getgátum og loptbyggingum, af glamri um mál, sem eigi er hægt að rannsaka á vísindalegan hátt vegna þess að menjar um þau vanta. Í fótspor þessara manna

feta nú hópum saman smáir getgátnasmiðir og snillingar í þeirri list, að gjöra svart að hvítu, þýðendur, er geta fengið hvað sem er úr hverju er vera vill, og geta fundið fjarskalega speki, eða frábæra ritsnild í því, sem er í raun rjettri ekkert annað en herfileg og heimskuleg ritvilla. Og þó var þetta tímabil að nokkru leyti blómaöld grísk-rómversku fornvísindanna. Sjaldan hefur verið slíkur áhugi á þessu námi og sjaldan orðið svo almennur. Það sem vantaði var það, að skynbragð manna á hinu verulega hafði spillst af gífurlegum hugsjónum, að rjettar og rangar hugsanir rugluðust hverjar innan um aðrar, og að menn höfðu misst augastaðar á hinum óbrigðulu einkennum sannleikans.

Það var auðvitað að þessi háfleyga stefna i meðferð Þjóðverja á fornvísindunum hlyti að vekja mikla mótspyrnu, sem gæti bætt unnin afglöp eða úr ókostunum með því að snúa sjer að því, sem gagnstætt var, og hinn helzti forvígismaður þessarar stefnu er einmitt hinn frægi landi vor. Fjarskaleg skarpskyggni, óbilandi skýrleiki, rósemi og aðgætni, er aldrei bregzt, óhlutdræg athugun á alla vegu á öllum atriðum; þetta allt eru beztu eiginlegleikar rannsóknar Madvigs. En þessir kostir eru keyptir fyrir mikla ókosti. Hversu mikið er það eigi af fornaldarlífinu, sem hinn maðvígska vísindamenntun hefur aldrei getað náð í? Hefur Maðvíg nokkru

sinni leitt fram lifandi, tæmandi og litmikla mynd af nokkru tímabili? Hefur hann nokkru sinni í kenslustofu sinní getað sært fram svip nokkurs hinna miklu manna í fornöld, eins og sagan segír, að dr. Faustus hafi sýnt stúdentunum í Erfúrt alla kappana úr Trójustyrjöld og hinn hræðilega jötun Polifemus, þá er hann hjelt fyrirlestra fyrir þeim yfir Homer? Jeg hef sjálfur heyrt Maðvig halda fyrirlestra yfir kvæði Homers og eins yfir önnur grísk rit; en jeg verð að játa, að jeg sá aldrei svipi koma upp um gólfið. Þessir fyrirlestar voru aðdáanlegir alls staðar þar sem komið var undir að kveða á um sögulega atburði, koma skipulagi á efnið og sópa burtu þeim tilgátuvef, sem lærðir menn á síðari tímum svo opt hafa ofið yfir óbrotna viðburði. Einkum var meðferð hans á tilgátu Wolffs um uppruna kvæða Hómers meistaraleg. En þegar hann hafði rutt brautina á þennan veg og upp skyldi byggja það, sem rifið hafði verið niður, þá var eins og hinn ágæti lærdómsmaður næmi staðar með einhvers konar efa og hugleysi við þröskuld, en mönnum fannst að hið bezta og verulegasta væri geymt innan hans. Jeg man að mjer datt í hug og þótti það illt, að verið gæti að Madvig hefði eiginlega engan áhuga á fornöldinni annan en þann, er orðadómari hlýtur að hafa á hverju því, er hann reynir sig við. Seinna hef jeg breytt skoðun minni og orðið

sannfærður um, að Madvig ann heitt því, sem bezt er í fornöldinni. Þessi tilfinning hans er langtum hreinni og göfugri en margyrði og orðagjálfur ýmsra annara, einmitt af því að hún kemur svo sjaldan í ljós. En það væri æskilegt, að hún kæmi meir í ljós hjá kennara í málfræði, einkum þá er hann hefur nýja stefnu, því það er mjög hætt við, að áhugi tilheyrendanna á því, sem mest er vert í fornöldinni, kólni á meðan þessi smásmuglega og leiðinlega orðadæming stendur yfir, og við þvi hefur Madvig heldur eigi getað gjört. Ef jeg ætti að nefna þá hlið af fornöldinni sjálfri, sem Maðvig einkum hefur hepnast að setja fram, þá er það ekki hið auðuga einstaklingslíf, sem geymist um aldur og æfi í listaverkunum, heldur eigi saga ríkjanna í allri sinni víðáttu, en hið almenna, þær stofnanir og þau lög, sem hafa orðið til um leið og þjóðir fornaldarinnar tóku framförum og þroska. Það er sagt að hinn nafnkenndi málfræðingur hafi átt í langri og harðri baráttu við sjálfan sig, þá er hann kornungur var orðinn háskólakennari, um það hvort hann ætti eigi að breyta um nám og leggja stund á lögfræði. Það er að minnsta kosti víst að af frægum málfræðingum hefur varla nokkur í allri stefnu sinni hallast svo mjög að lögfræði, og ef það er satt, sem sagt er að Mad-

vig sje að rita um stjórnarskipun Rómverja[1], þá verður það eflaust eitthvert bezta ritið af þeim öllum, er hann hefur ritað. Skýringin á fornritum er reyndar nærri jafnmikið lögfræðisleg sem málfræðisleg, en það ber öllum saman um, að þar takist honum bezt. Að því er snertir gömlu málin sjálf, hvað er það, sem Madvig hefur tekið helzt að sjer? Hefur hann með nákvæmni rannsakað hinar smáu og undarlegu breytingar í þýðingum orðanna, hefur hann rakið vöxt orðstofnanna upp að hinum djúpu rótum, er felast í myrkri hinnar indoevropeisku nætur, sem nú er farið að verða dálítið ratljóst? Ónei! Í þessum skógum er ofmikið af skáldlegu rökkri, ofmikið af álfaertingum og mýrarljósum til þess að mann, sem er svo reglufastur og skarpur dómari, skyldi langa til að dvelja þar um hríð. Hinar föstu reglur hins fullþroskaða máls, lög hinnar fullkomnu orðaskipanar, undantekningar þær, sem eru lögleiddar af málvenju fornaldarinnar, við þetta líkar honum bezt að fást við í málunum. En hver þekkir hjer eigi aptur lögfræðinginn dulbúinn sem málfræðing? Allt hið harða og óaðgengilega, allt hið þunglamalega í menntun fornaldarinnar hefur hinn dómskarpi maður al-

---

1) Það rit er nú komið út og heitir „Den romerske Stats Forfatning og Forvaltning“. það er í teimur allstórum bindum og þykir vera hið ágætasta í sinni röð.

*Þýð.*

veg á valdi sínu, en hið ljetta og leikandi, lífið fegurðin, listin virðist fljúga úr greipum hans, án þess að hann fái fest hönd á því. Það mætti ef til vill segja, að Madvig hafi fengið gáfu til þess að sýna parta fornaldarlífsins í smækkunargleri og úr fjarska, en hina náttúrlegu sjón, sem þar er á milli, það er þegar menn líta með beru auga beinlínis á hlutina, hana hefur hann síður. Beinlínis skoðun er honum eigi lagin, en það dregur ætíð dilk eptir sjer að sleppa einum lið úr því, sem beinlínis á saman. Byrjun til allra vísinda er skoðun, en annað stig þess, að komast vel niðri í einhverju, er að liða það í sundur ögn fyrir ögn, en það er eigi hægt nema að byggja á hugboði því, sem að skoðunin hefur haft í för með sér. Sundurliðunin skýrir að vísu málið fyrir oss, en enn þá er allt á tjá og tundri, og þá er að mynda eina heild úr því, sem vjer höfum komizt að raun um, og það er eigi annað en ný skoðun á æðra og sannara stigi. Þess vegna má dómgreindin eigi líta drembilega niður á beinlínis skoðun eins og hún væri óvísindaleg, heldur á hún að virða hana eins og það móðurskaut, sem eigi að eins listin heldur og vísindin sjálf vaxa upp úr. Það er einkennilegt fyrir vísindamenn, sem hafa einstrengingslega dómsgreindarstefnu, að þá vantar djúphyggni og komast eigi lengra en almenn skynsemi nær, en þetta er víst náskylt því að beinlínis skoðun

þeirra er ófullkomin, með því að djúpustu hugsanir virðast einmitt kjósa helzt lifandi og víðtækar skoðanir sem jarðveg, er þær vilja helzt vaxa í.

Ef vjer nú viljum spyrja hvort vísindagrein Madvigs, grísk-rómversk málfræði, hafi fest djúpar rætur í Danmörku og hvort hinn ágæti vísindamaður hafi stofnað sterkan og starfsaman málfræðingaflokk, þá hljótum vjer því miður að neita því. Reyndar eru hjer í landi margir, sem iðka grízk-rómverska málfræði, en ef menn gæta að hvað þeir hafa unnið fyrir vísindagrein þessa, munu menn furða sig á hve lítilvægilegt það er. Ef vjer tökum frá *Friðrik Nutzhorn*, sem dó á bezta skeiði, skarpur og andríkur maður, og að líkindum hinn eini af lærisveinum Madvigs, sem hefur sýnt, að hann hafði bæði hug og dug til að iðka málfræði svo að kvæði, og enn þá fáeina, sem ósanngjarnt væri að segja um að þeir hefðu eigi haft gáfur og vísindalega viðleitni, þá getum vjer hinir aðrir, án þess að gjöra of litið úr oss, talið vísindaleg störf vor mjög smávægileg og næstum ósýnileg. Hversu lítið hafa eigi danskir málfræðingar gjört í þá stefnu að halda áfram rannsóknum Madvigs, hversu lítið til að bæta það sem er einstrengingslegt hjá honnm og draga fram þá hluti málfræðinnar, er hann hefur látið sig litlu varða? Um yngri menn og yngstu, er náttúrlega of snemmt að dæma; ef til vill kunna

vísindin einhnern tíma að þakka þeim fyrir að þeir hafi verulega auðgað þau. En þegar vjer lítnm yfir það, sem lærisveinar Madvigs hafa starfað enn sem komið er, þá finnst oss því miður of opt sem dugleysi og hugleysi hamli þeim. Einkum þegar vjer gætum að hinum mörgu skólabókum um fornaldarlífið og fornaldarrit, sem frá þeirra hendi eru komnar, þá minnir það oss leiðinlega á soltna varga, sem naga leifarnar af máltíð ljónsins. Ef spurt er hvernig standi á þessu, sem undarlegt má þykja, að svo frábær vísindamaður hefur kennt við háskóla vorn í hálfa öld, og enginn öflugur vísindamannaflokkur hefur vaxið upp í kring um hann, þá mundi það víst vera ósanngjarnt að skjóta allri skuldinni á lærisveinana, því af kennslunni, sem nær eingöngu er orðadæmingarleg, stendur slíkur helkuldi, að lærisveinunum er mjög hætt við að missa það, sem á að vere hið eiginlega hvetjandi og lifandi afl í námi þeirra, það er hin gagntekna aðdáun fyrir og ást á því, er nema skal. Eu aðalástæðan til þessa mun þó víst liggja í leti þeirra og makindasemi, sem því miður er svo rótgróin í eðli Dana. Við það bætist sú ástæða, að flestir lærisveinar Madvigs hafa dreifzt út um landið sem skólakennarar. En nú er kunnugt hvernig þar fér um þá, því er ver og miður. Ungur og margfróður maður kemur þangað og ætlar sjer að halda áfram námi sínu í tómstundum þeim

er hann er laus við embættisstörf, og það statt og stöðugt, en þar hittir hann aldrei jafnoka sína; kaupstaðalífið og búgarðalífið glepur fyrir honum. Það verður því of opt, að hann fær eigi komið fram því, sem hann ætlar sjer, svo heiðarlegt sem það er, og skemmtanir og smávik ráða meiru á tómstundum hans en menntagyðjurnar. Eflaust stafar þaðan hin hryggilega sjón, að svo margir vísindamenn standa eins og stundaklukkur, sem hætt er að draga upp. Þaðan koma hinar vondu og ósjálfstæðu kennslubækur, sem stundum eru prentaðar aptur og aptur með sömu villunum, sem sýna að höfundarnir hafa blundað vært á meðan. Það væri rangt að neita, að meðal lærisveina Madvigs eru menn, sem starfa af alhuga. En þeir eru aðeins fáir og miklu færri en þeir ættu að vera, og í annan stað ber mestur hluti kennsluhókanna vott um, að þeir standi í stað í vísindalegu tilliti, eða jafnvel að þeim fari aptur, og það er eigi nein gleði eða sómi fyrir land vort. Það virðist sem skólakennarar af flokki Madvigs gleymi opt, að í þekkingu verður mönnum að muna aptur á bak eða áfram, og að sá, sem á að tala lifandi orð til æskumannanna, getur eigi farið klaufalegar að en að staðna í andlegu tilliti, en það er óhjákvæmileg afleiðing af því að hætta náminu. Lærisveinar Madvigs ættu í þessu tilliti að hafa fyrir augum dæmi meistara síns, sem nú hefur starfað um langa æfi fyrir vísind-

in, og ættjörðina og tekur sjer þó eigi þá hvíld, sem hann hefur heimtingu á öllum öðrum fremur. Nei, þó að ellin gjöri hann sjóndapran, þá sýnir hann samt að hann er göfugur vísindamaður og að lífið og rannsóknin stendur jafn lengi hjá honum.

Nú hættum vjer að tala um lærisveina Madvigs sem vísindamenn, en tökum fyrir hið verklega starf þeirra í skólunum og spyrjum hvernig hinir lærðu skólar hafi orðið undir umsjón og eptirliti þeirra. Sá, sem eigi þekkir neitt til og hefur lesið það, sem vjer höfum ritað hjer á undan, með aðgætni, mun þegar hafa sjeð, að hinn kaldi orðadæmingargustur, sem hefur svo lengi staðið á lærðu skólana, hlýtur að hafa haft kúgandi kalaáhrif á þá, og jeg held reyndar að nú verandi ástand lærðu skólanna sje hvað líkast józku skógunum þar sem trjen eru bækluð og bogin af vestanvindinum. Af orðadæmingu og sundurliðunum er komið meira en nóg, en beinlínis lifandi skoðun hlutanna kemur lítt fram. Og ef það nú er hættulegt, sem vjer höfum sjeð, að háskólakennari sleppi þessu atriði, þegar áheyrendur hans eru fullþroskaðir menn, þá getum vjer skilið hversu skaðsamlegar afleiðingar sama aðferð getur haft þá er börnum á að kenna. Þá er það er tekið fyrst, sem náttúran sjálf lætur vera næst því fyrsta, og menn ætla að þeir taki af sjer krók með því, þá er það í raun og veru fjarskaleg

krókaleið, sem eigi flýtir heldur hamlar fyrir kenslunni, eyðir námfýsninni og dregur dáð og dug úr lærisveinum og veldur því, að árangur alls starfsins verður svo lítill og svo skammvinnur, sem hann því miður of opt er. „Þó náttúran sje lamin með lurk, leitar hún heim um síðir". Jeg ætla að taka nokkur dæmi til þess að sýna það, sem jeg hef sagt.

Sögukennslan í lærðu skólunum er þannig, að öll mannkynssagan er lesin aptur og aptur eptir kennslubókum, en í þeim er hún svo þunn og mögur, að hvergi kemur nokkur lifandi og ljós mynd af tímabilum og mönnum. Ytri hagur ríkjanna, konungaraðir, styrjaldir og breytingar á landamærum, sem þær valda, aðalatriði stjóruarskipananna og helztu breytingar í þeim er nefnt í hinum stuttu ágripum, sem notuð eru, en líf einstakra og mikilla manna, menntunin, siðirnir, listin og bókmenntirnar koma eigi fram fyrir augu lesandanna. Hversu þung er eigi byrði tímatalsins, sem nær yfir 3000 ár af æfiskeiði mannkynsins og er lögð lærisveinunum á herðar? Hversu undrafljótt gleyma þeir eigi þessu aptur eptir hvert próf, sem haldið er, og eins hinum tilbreytingarlausu tímabilslýsingum, og hinum almennu dómum og skapferliseinkunnum, sem þeir hafa orðið að taka með trúarinnar augum, því að engin grein er gjörð fyrir þeim? Sú kennslugreiu, sem gat verið langskemmtilegust

og mest vekjandi og fræðandi af öllu, verður þyngst og ófrjóvust af öllum kennslugreinum skólans í augum margra lærisveina, þá er yfirlit það, sem eigi á að koma fyr en á eptir, er einstrengingslega dregið fram og beinlínis lifandi skoðun, sem einnig er í eðli sínu nauðsynlegur grundvöllur sögulegrar þekkingar, er vanrækt. Jeg verð af alhuga að dá sögukennara þá við lærðu skólana, sem þrátt fyrir hinar fjarskalegu tálmanir, sem óheppilegt fyrirkomulag á skólunum með ósanngjörnum prófkröfum veldur þeim, geta komið inn hjá lærisveinum sínum verulegum áhuga á þessari kennslugrein, sem er svo illa leikin.

Latínukenslan ræður svo miklu í lærða skólanum að hann jafnvel hefur annað af nöfnum sínum, sem eru mjög illa valin, af þessari námsgrein. Sámt sem áður er það margsannað að kunnátta í latínu hjá skólagengnum mönnum vorum er merkilega lítil og það er hrein undantekning að hitta mann, sem ekki er málfræðingur og hefur vilja og kunnáttu til að lesa latnesk rit. Þetta er skýr sönnun fyrir því, að einhver stórgalli sje á latínukennslunni, og þá er vjer gætum betur að, kemur það fljótt í ljós, að hinni röngu kennsluaðferð, sem er aðalástæðan til allrar óhamingju skólans, er líka að kenna um hinn ónóga árangur latínukennslunnar. Hvað er það, sem verður fyrst fyrir oss og vjer

rekum oss fyrst á, þá er vjer ætlum að læra útlent mál? Er það málmyndafræðin? Nei, því fer fjarri, það eru orðin, nöfn á þeim hlutum og hugmyndum, sem optast koma fyrir. Það er byrjun málkennslunnar. Orðasafn, það er skrá yfir hin venjulegu orð, sem ekki er raðað eins og í almennum orðabókum vorum heldur eptir eðlilegri flokkaskipun hlutanna, og það er hin fyrsta bók, sem á að fá lærisveininum. Orðasafnið á að fylgja lærisveininum gegnum skólann og á smámsaman að stækka það, svo að það innihaldi hin almennustu orð málsins, og það á að vera aðalhjálpin við málkennsluna. Í þessari bók mun jafnvel barni verða vel ágengt, og án mikillar fyrirhafnar mun það geta lært þó nokkuð. Þessi orð, sem það hefur lært, verður að gjöra lifandi bæði með lestrarbók, þar sem orðin eru samtengd í setningar og með munnlegum og jafnvel skriflegum æfingum í að mynda setningar. Þá mun lærisveinninn fljótt komast að þeirri niðurstöðu, að hann getur eigi tengt orðin saman í þeirri mynd, sem stendur í orðasafninu, en að þau verða að taka vissum breytingum, eptir því hvort þau eiga að hafa þessa eða hina þýðingu, eptir því hvort þau eiga að vera í eintölu eða fleirtölu, eptir því hvort talað er um það, sem hefur verið, er eða mun vera. Þannig vaknar sjálfkrafa og á eðlilegan hátt þörf á og jafnframt áhugi á málmyndafræðinni,

sem þaðan af á að vera með, ekki ráða málkennslunni (því að ávallt verður að muna eptir því að mest er komið undir orðunum), en verða með eins og þjónn, sem gefur margar gagnlegar og meira að segja nauðsynlegar bendingar um það, hvernig á að taka saman þýðingar orðanna í setningum í hverju tilfelli. Jeg hef með fáum orðum lýst hinni eðlilegu aðferð málkennslunnar framan af. Vjer skulum nú sjá hvernig latínukennslan er byrjuð í lærðu skólunum. Þar er byrjað á málamyndafræðinni og hinar torveldu beygingar hennar eru það fyrsta, sem byrjandinn kynníst. Jafnframt og hann lærir beygingarnar eru honum sýndar þær í lestrarbók, sem trúlega fetar í fótspor málmyndafræðinnar og sem neyðist til þess að koma með ógurlega bragðdaufar setningar af því að hún má eigi taka neina mynd, sem hefur eigi komið fyrir í málmyndafræðinni. Þá er hann nú loksins eptir langa mæðu hefur lokið við beygingar nafnorða og lýsingarorða, þá koma fornöfn og töluorð, sem engan veginn eru ljett, og þá er hann hefur líka sjeð þau í lestrarbókinni, þá verður loksins tekin beyging sagnorðanna, sem er mjög margbrotin og er hann einnig æfður í henni smámsaman með dæmum úr lestrarbókinni. Er hægt að fæla byrjandann frá náminu meir með öðru móti en þessu? Hinar fjöldamörgu málmyndir, sem lærisveininum er óljóst um, hvað

þær eiga að þýða í setningunni, en sem honum finnst vera fjarskalega ólíkar myndun móðurmálsins af því þær eru svo margbrotnar, þessi dómolluþæfing til þess að þær verði allar nægilega innrættar, þessi veika fótfesta í sárlitlum orðaforða, loksins still á því máli, sem lærisveinninn þekkir að eins agnarögn í, allt þetta hlýtur hjá flestum að valda óbeit og leiða á kennslugreininni. Við það bætist að hin latneska málmyndafræði er barin inn, reyndar eigi (að jeg vona) með líkamlegri barsmið sem áður á tíðum, en þó opt með andlegri, það er að segja með snuprum og vondum vitnisburði til þess að halda þeim að með valdi, þar sem efnið sjálft fær eigi laðað þá að sjer. Af þessu sjest, að latínunámið er eigi mjög ginnandi fyrsta árið. Nú kemur lærisveinninn npp í annan bekk, losast við lestrar bókina og byrjar á Cornelius Nepos,[1] sem er nærri því eins leiðinlegur, og loksins nær hann svo í rithöfund, sem er sannarlega skemmtilegur,

1) Höfundurinn getur þess hjer neðanmáls, að hann fari hjer eptir því, sem lesið hefur verið í einum lærðum skóla, en það er nálega hið sama í þeim öllum og að minnsta kosti hjer um bil eins að vöxtunum. Í skólanum í Reykjavík er lesið nokkru meira í latínu en hjer er talið og varið heldur fleiri timum til hennar en í dönsku skólunum; svo er og heimtað til inntökuprófs rúmlega eða hálfu meira í latínunni, en þar er lesið í fyrsta bekk.

*Þýð.*

C. J. Caesar. En því er miður, það er hvorki talað að nokkru ráði um fyrirætlanir hins stórvitra hershöfðingja eða um síðustu baráttu hraustrar þjóðar fyrir frelsinu. Nei, þessu er vísað í þagnarkrókinn í kennslutímum latínunnar, því að málfræðin hefur nú tekið til píslarfæra sinna, þar sem orðskipunarfræðin er; rithöfundar eru nú einkanlega lesnir til þess að sundurlima þá, til þess að sanna að rithöfundar fornaldarinnar hafi í raun og veru haldið allar reglur Madvigs. Reglur þessar eru en fremur niðurgreiptar með latneska stílnum og fer nú að bera á hinum fögru blómum hans. Í 3. bekk er aptur lesin 1 af bókum Caesars, eitt af smáritum Sallusts og dálítið af myndbreytingum Óvíds. Stíllinn stendur í blóma sínum og hið mikilvægasta og torveldasta í orðaskipunarfræðinni er lært. Í 4. bekk er lesin ein bók eptir Livíus, ein af lengri eða nokkrar af styttri ræðum Ciceros, og ein bók eptir Virgil. Síðasti hluti orðaskipunarfræðinnar er nú lærður, en hitt er sorgarefni fyrir alla rjetttrúaða lærisveina Madvigs, að stílnum er hætt þá er upp úr þessum bekk er komið. Nú erum vjer þá komnir svo langt að latínan er eigi lengur kennslugrein fyrir þá, sem stunda ætla stærðafræði og náttúrufræði,[1] og skulum vjer þá líta

---

1) Árið 1871 fjekk leyndarráð Hall, sem þá var kennslumálaraðgjafi, tvískiptingu í kennslunni í lærðu skólunum

aptur og sjá hvað numið hefur verið. Ekki verður það stórt, þá er menn leggja saman þá smákafla af höfundum, sem þeir hafa lesið! Og þetta er árangurinn af 4 ára striti lærisveina, sem eru á 12. til 15. ári,[1] og hafa 6 til 8 tima á viku! Skynsamlega er nú að farið! En það er skaði að svo lítið er talað um það, sem höfundarnir hafa viljað segja sjálfir. Enginn ætli að á þessum langa tíma hafi verið farið nokkuð í hið sögulega hjá Caesar, Sallust, Livius, í hið mælskulega hjá Cicero eða hið skáldlega hjá Ovíd og Virgil; því fer fjarri. Þetta er látið mæta afgangi. Smásmygli hinnar málmyndalegu sundurlimunar er aðalmark kennslunnar. Ef spurt er hvernig standi á þessari býsn, að hið óveru-

í Danmörku tekna í lög *á ríkisþinginu,* þannig að í miðbekkjum skólanna verður hver piltur að velja um hvort hann ætli að leggja stund á gömlu málin, latínu og grísku eða stærðafræði og náttúruvísindi og 2 efstu bekkirnir eru klofnir í tvær deildir hvor. Hver er vill getur sjeð nákvæmar um þetta í lögum um kennslu í lærðu skólunum frá 1. apríl 1871 og í reglugjörð fyrir þá frá 5. ágúst s. á. þessi tvískipting þykir flestum mjög óheppileg nema að því einu, að hún er fyrsta tilræðið, er unnið hefur verið, til þess að víkja latínunni úr öndvegi.

*Þýð.*

1) Börn og unglingar eru í Danmörku sem víða erlendis látnir byrja skólanám yngri að aldri en venjulegt er á Íslandi.

*Þýð.*

lega hefur þannig bolað út hið verulega, þá verður svarið, að latneska stílnum sje það að kenna. Þessum hryggilegu leifum frá þeim tíma þegar latínan var mál vísindanna, þessu miðaldarsniði í menntun nútímans hefur því miður verið haldið af því ætlað var, að hvorki yrði latína almennilega lærð án stílsins, nje heldur ætti að kasta því burt, sem menntaði andann svo stórlega. Að því er snertir fyrri ástæðuna þá er hún hraparlegur misskilningur. Það er einmitt stíllinn, sem eyðileggur latínukennsluna; það er vegna hans að höfundarnir eru lesnir svo seint og hægt, að menn verða dauðleiðir á þeim og komast aldrei fram úr þeim; aptur og aptur er hætt og verið að vísa í smákreddur málfræðinnar; geta menn því aldrei fengið almennilega skýra hugmynd um það, sem þeir hafa lesið en það er einmitt tilgangur höfundanna sjálfra Hvergi kemur andhælisskapur kennslunnar betur fram en í latneska stílnum. Ef hann hefði eitthvað til þess að byggjast á, ef orðaforði væri numinn og innrættur svo nægði, ef höfundar hefðu verið lesnir svo mikið, að menn fyndu af sjálfum sjer hvað málmyndirnar þýddu og hvernig þær yrðu notaðar, þá mundi stíllinn eigi verða sjerlega torveldur og lærisveinar jafnvel hafa heldur gaman af honum. En nú er reynt að kreysta hann út úr mönnunum of snemma, og þá verður árangurinn aldrei. góður, því nátt-

úran er námi ríkari. „Þú skalt eigi sækjast eptir vínberinu á meðan það er óþroskað“, segir latneska skáldið[1], sem lærisveinar Maðvigs kveða hafa svo mikla þýðingu fyrir uppeldið. Þeir ættu að sníða kennslu sjálfra sinna eptir þessum orðum! Margt mundi þá betur fara í lærða skólanum en nú fer. En, segja þeir, sem verja þessa kennsluaðferð, latneska málmyndafræðin og stíllinn sýna svo ágætlega inn í eðli málanna og fylgsni hugsananna, að vjer getum með engu móti verið án þeirra. Í þessu er efalaust mikill misskilningur. Því jafnvel hin oflofaða málfræði Maðvigs er þó alls eigi nein vísindaleg málfræði, heldur að eins safn af reglum án hins dýpra sambands, sem að eins samberandi málfræðisleg skoðun getur gefið, og eigi byggð á þeim frumreglum hugsunarfrœðinnar og sálarfræðinnar, sem er undirstaða og grundvöllur þeirrar málfrœði, sem er vísindaleg í orðins eiginlegu merkingu. En jafnvel hin nákvæmasta þekking á safni af reglum, sem er hrúgað saman, veitir eigi neina dýpri málþekkingu, og hin verklega meðferð þeirra í stílnum þroskar heldur eigi jafnmikið skilninginn, sem margir halda. Það sem mest er undir komið í latneska stílnum er, að muna jafnframt eptir ótal reglum, undantekningum og undantekningum undantekninga. Það þarf eflaust snarræði og fimleik til þess að hafa allt þetta smælki á hraðbergi jafnframt og sigla milli skers og báru í því; en það eru til mikilvægari sálargáfur, sem fremur ætti að reyna að þroska, og margur dugandi piltur hefur vissulega fælst frá náminu, af því hann var eigi lagaður fyrir eggjadans, sem hefur verið ýktur svo fjarska mikið. Sjúk-

[1] Horatius.

dómurinn sem spillir og fer með lærða skólann, á aðal rót sína að rekja til latneska stílsins og þaðan hefur sóttnæmisefnið smásaman breiðst út til hinna hlutanna. Latneski stíllinn hefur eigi að eins farið með merginn úr latínukennslunni heldur einnig með því spillt fyrir grískukennslunni, og rýrt það gagn, sem menn hafa af námi nýju málanna, því líka í þeim hefur verið kennt að elta málfræðislega smámuni, og látið það sitja í fyrirrúmi fyrir því þýðingar meira, að rita óeðlilega og of snemma stíla. Einkum engist frakknesku-kennslan undir þessum andhælisskap frá því að hin nýja skólareglugjörð komst á. Eiginlega ætti jeg hjer að segja frá öllu því meini, sem latneski stíllinn hefur valdið oss öllum beinlínis eða óbeinlínis, oss, sem höfum fengið skólamenntun, því allir berum vjer meira eða minna merki þess, að í æskunni hefur oss verið gefið, ef eigi steinar, þá að minnsta kosti kartöpluhismi í stað hins heilnæma brauðs mentunarinnar. En jeg vil heldur snúa mjer frá þessum skuggahliðum að framtíðinni, sem virðist ætla að verða bjartari, og þá er eitt atriði, sem jeg get fallizt á hina nýju reglugjörð í. Já, þó að leyndarráð Hall hafi gjört lærða skólanum margt íllt, þó að hann til allrar óhamingju hafi tekið burt 2 neðstu bekkina, þó að hann hafi neytt uppá hann rjettritun, þó að hann loks hafi komið á hinni óhappalegu tvískipingu, sem bæði er mannúðleg og ómannúðleg, þá hika jeg mjer eigi við að telja hann meðal þeirra manna, sem lærði skólinn á mest að þakka, af því að hann fann latneska stílinn og veitti honum þann áverka, sem hann aldrei mun bíða bætur af. Í 2 efstu bekkjum ljettir yfir skólapiltunum, þá er þeir hafa losnað við hið þunga ok, og kennslunni í latínunni má nú

haga þannig. 2 síðustu árin, að hið verulega sitji í fyrirrúmi fyrir hinu óverulega. Að eins er sárt til þess að vita, að undirstaðan, sem á að byggja á framvegis, er hvorki svo traust nje mikil, sem vænta mætti eptir 4 ára strit, og hörmung er til þess að vita, að lærisveinar, sem nema mest stærðafræði og náttúruvísindi og sem hafa verið svo illa leiknir, skuli einmitt verða að hætta við latínuna þá er þeir loksins eru komnir svo langt, að hún með því sem henni heyrir fari að hafa nokkur menntandi áhrif á þá".

Síðan sýnir Pingel fram á í stuttu máli að kennslan í náttúrusögu og stjörnufræði þjáist af sömu meinsemdinni, maðvígskunni, sem sögu- og málfræðis- kennslan, að kennt sje *almennt yfirlit* yfir byggingu og líf, aðalskiptingu og flokka dýra og planta o. s. fr., en hið verulega sitji á hakanum. Svona er kennslan í þessum fræðigreinum í dönsku skólunum, en hvernig skyldi nú vera hjá oss? Hamingjan hjálpi oss! Vilji menn vita nokkuð að mun um náttúruna, þá þarf fyrst og fremst að skoða hana vel og vandlega í krók og kring, jafnframt eða síðan er gott að lesa um það, er menn hafa sjeð.

Og að lokum gjörir Pingel grein fyrir því, að hann hafi ritað þetta: Það er eigi hægt að lagfæra neitt ef menn vita eigi hvað að því gengur. Þess vegna þurfa þeir, sem þekkja, að segja hreint og beint, satt og rjett frá því, sem aflaga fer og ábótavant er. Margt er ágætt við lærðu skólana og margir góðir og enda ágætir kennarar við þá, en á þeim eru kaun, sem eigi má klýstra yfir heldur verður að þvo vel hrein og binda svo um vandlega, svo að þau geti gróið og orðið alheil.

